# Verkalýðsblaðið

1. tbl. 11. árg. 26. janúar 1982 Verð kr. 10,00




## Bindur atvinnustefna borgaraflokkanna
# ÍSLAND Á KLAFA FJÖLÞJÓÐA-AUÐHRINGA?



Tuttugu álver um landið eða iðjuver í íslenskri meirihlutaeigu. Kjarni málsins er að stóriðjuver á borð við t.d. Grundartangaverksmiðjuna þjóna ekki framtíðarhagsmunum íslenskrar alþýðu í atvinnumálum — grundvallast á ódýrri orku og ódýru vinnuafli.

**Eitt gamalla deilumála í hreyfingu marx-leninista hefur verið hvort Ísland teljist til þriðja heimsins vegna yfirgnæfandi áhrifa fiskútflutnings á efnahagslíf landsins. Gjarnan hefur verið vitnað til landa eins og Perú, sem grundvallast á fiskútflutningi, Chile, sem byggir á koparframleiðslu og fleiri lönd hafa verið tínd til.**

Sem betur fer fyrir íslenska alþýðu hafa þeir sem þessu hafa haldið fram ekki haft rétt fyrir sér. Ísland er ekki háð auðvaldsríki, heldur minniháttar auðvaldsríki, sem á samleið með heimsvaldaríkjum annars heimsins. Þetta byggir ekki síst á því að fiskútflutningurinn er þrátt fyrir allt ekki einfaldur hráefnisútflutningur undir yfirráðum fjölþjóðaauðhringa heldur útflutningur á hálfunninni vöru, sem sett er á markað af útflytjendum sjálfum.

Það hefur lengi verið draumur Íslendinga, hvar í flokki sem þeir standa að minnka áhrif fiskjarins á efnahag landsins — einkum með því að efla annars konar iðnað.

Leiðirnar að þessu marki hafa um langa hríð verið deiluefni borgaraflokkanna, þar sem Sjálfstæðisflokkurinn og Alþýðubandalagið hafa myndað hina andstæðu póla.

Draum íhaldsins um tuttugu álver hringinn í kringum landið þarf ekki að fjölyrða um. Andsvar Alþýðubandalagsins um stóriðjuver undir yfirráðum Íslendinga þarf heldur ekki að fjölyrða um. Um þetta er deilt.

Eitt eiga þó þessar andstæðu skoðanir sameiginlegt. Á Íslandi skal byggja upp öfluga hráefnisframleiðslu meira eða minna með þátttöku erlendra fjölþjóðaauðhringa.

Það þarf engan hagfræðisnilling til að sjá hvert atvinnustefna borgaraflokkanna leiðir á endanum. Kenningarnar gömlu um hálf-nýlenduna Ísland eiga kannske eftir að rætast.

Stefna kommúnista í iðnaðaruppbyggingu grundvallast á fjórum meginforsendum: **Sjálfræði Íslands, tækniþekkingu landsmanna, fámenni og orkuauðæfum.** Hérlendis er unnt að byggja upp háþróaðan iðnað, sem nýtir orku fallvatnanna,

Framhald á bls. 2

# SPÁNN OKKAR TÍMA

**Munið þið eftir innrásinni í Tékkóslóvakíu 1968? Auðvitað gera það allir sem hafa aldur til. En munið þið hvort íslenskir stjórnmálaflokkar eða ríkisstjorn hafi gert eitthvað til hjálpar tékkneskri alþýðu? Nei. Að frátöldum einum eða tveimur mótmælafundum, voru viðbrögðin gagnslaus.**



Ekki gerði ríkisstjórnin neitt til bjargar fólki í Indókína á sínum tíma, þá voru það helst vinstri menn sem stóðu fyrir verulegri aðstoð, bæði í orði og á borði. Líklega réð staða Bandaríkjanna þar miklu. En hvað hefur gerst síðan? Bandaríkin hafa verið flækt í ljóta glæpi í Nicaraqua, Guatemala, El Salvador og Chile. Að frátöldum blaðaskrifum, nokkrum fundum um þessi lönd og ágætu heimboði krata (varðandi El Salvador), hefur ekkert farið fyrir mannúðarstefnu Íslendinga. Í málefnum Kampútseu og Palestínumanna hefur ríkisstjórnin haldið að sér höndum og oftar falið sig að baki hjásetu hjá SÞ en stundað baráttu fyrir sjálfsákvörðunarrétti þjóða. Meðan íslensk stjórnvöld hafa tekið sæmilega mannlega afstöðu gegn stjorn S-Afríku, hafa þau látið þjóðarmorðið í Eritreu afskiptalaust. Þar hafa kommúnistasamtökin ein haft fjársöfnun og heimboð eritrísks fulltrúa. Og meira að segja hafa þau samtök ein safnað fé handa baráttusamtökum blökkumanna í S-Afríku!

Hvað með viðbjóðslegar aðfarir Sovétmanna í Afganistan? Íslensku flokkarnir hafa ekkert gert, nema hvað Kommúnistasamtökunum tókst að ná nokkrum ungliðasamtökum (ekki ,,vinstri''!) saman til mótmæla við sovéska sendiráðið. Segja má að stríðið sé gleymt, nema hvað Morgunblaðið og Alþýðublaðið birta af og til greinar um það. Maður spyr sig þá hvort ráði: Stuðningur við Afgani eða óskin um að geta svert sósíalismann með því að afhjúpa Sovétríkin sem í raun eru ekkert annað en ríkiskapítalískt heimsveldi. En þarna eru hægri og miðöflin þó skárri en ,,alþjóðasinnarnir í Alþýðubandalaginu. Væri fjársöfnun til þjóðfrelsisaflanna ofrausn, Svavar Gestsson og Geir Hallgrímsson?

Þetta er rifjað hér upp út af Póllandi. Greinar hér í blaðinu rekja þýðingu Póllandsmálsins. Hún er slík að viðbrögðin á Íslandi vekja furðu og gremju. Ríkisstjórnin gerir almenna samþykkt (sem líklega var hvorki send til pólska né sovéska sendiráðsins). Tveir mótmælafundir eru haldnir, án þess að reynt sé að leita eftir sem víðtækastri samstöðu. Fjársöfnun fer fram, þó ekki í tilefni síðustu atburða. Ber síst að vanmeta glæsilegan árangur hennar.

En það er ekki nóg að lina

Framhald á bls. 2

# Maóistar í Fylkingunni?

Nú að undanförnu hafa Fylkingarfélagar verið að velta fyrir sér afskiptum Sovétríkjanna af friðarhreyfingunni og öðrum framsæknum hreyfingum. Hafa þeir komist að þeirri niðurstöðu að þótt Sovétmenn látist vera miklir vinir framsækinna afla þá sé raunverulegt markmið þeirra **að skemma fyrir þeim.** Þetta er kallað tvískinnungsháttur Sovétríkjanna. Hér virðast Fylkingarfélagar vera að komast að því sem maóistar hafa fyrir löngu bent á að Sovétríkin fela gagnbyltingarsinnað eðli sitt undir róttæku yfirbragði, s.s. byltingarsinnar í orði en gagnbyltingarsinnar og heimsvaldasinnar á borði. Stingur þetta mjög í stúf við fyrri hugmyndir trotta um að Sovét sé að forminu til afskræmt skrifræði en innihaldslega verkalýðs- og öreigasinnað.

KK

**Verkalýðsblaðið**

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ari Trausti Guðmundsson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14
Opnunartími: Alla laugardaga kl. 11 — 15
Sími: 2 92 12
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gíróreikningur: 12 200, Póstgíróstofan
Prentað í Offsetprent

# Þörf er fyrir Verkalýðsblaðið

Er Alþýðubandlagið sá stjórnmálaflokkur sem íslenskt launafólk þarfnast í hagsmunabaráttu sinni og í baráttu fyrir jafnréttisþjóðfélagi? Því svara hundruð ef ekki þúsundir manna neitandi. Ekki þýðir að benda á atkvæðatölur til að afsanna þetta vegna þess að mjög margir hafa lýst því yfir að þeir kjósi ABí vöntun á öðru betra. Kommúnistasamtökin eru ung og lítil samtök marxista sem vilja stuðla að stofnun miklu róttækari verkalýðsflokks en til er í landinu. Þau hafa fengið ýmsar einkunnir hjá öðrum og barist við barnasjúkdóma og bókstafstrú. ,,Bandamenn NATO''segir Fylkingin. ,,Bandamenn íhaldsins'', segir Olafur Ragnar Grímsson. ,,Ábyrgir vinstri sinnar''segir Vilmundur Gylfason. ,,Fámennur öfgahópur'' segir Morgunblaðið. Minna fer fyrir almennilegri skoðanabaráttu. Kommúnistasamtökin voru stofnuð haustið 1980 upp úr Kommúnistaflokki Íslands (stofnaður 1976) og Einingarsamtökum kommúnista (stofnuð 1975). Áður höfðu marx-lenínistar starfað innan Fylkingarinnar og í sérstökum samtökum frá 1972. Oft hafa þeir verið nefndir maóistar vegna hrifningar af Kína og lesturs verka eftir Maó Zedong. Verkalýðsblaðið var um skeið málgagn fyrrnefndra Einingarsamtaka, en Kommúnistaflokkurinn gaf út Stéttabaráttuna. Nú eru blöðin sameinuð.

Kommúnstasamtökin eru mun fámennari samtök en áður var, m.a. vegna þess að margir hafa ekki talið ómaksins vert að greiða úr flækju eigin mistaka og nokkurs árangurs sem hreyfingin getur þó státað af. En nokkur skref afturábak eiga að vera upphaf að nýrri sókn.

Meginstarf KS er nú útgáfa Verkalýðsblaðsins, sem er sent til 600 áskrifenda auk allmargra annarra aðila. Auk þess starfa samtökin í grunneiningum um mikilvægustu málaflokka stefnuskrár, halda uppi fræðslu- og fundastarfi sem er öllum opið og ýmsir félagar samtakanna starfa í fjöldasamtökum. Verkalýðsblaðið kemur út 10-12 sinnum á ári, en reksturinn og útgáfan gengur erfiðlega vegna þess hve fáir vinna að útbreiðslu þess og útgáfu. Þörf er á verulegu átaki ef félagshyggjumenn, sósíalistar og kommúnistar vilja halda úti fjölmiðli sem á þátt í að móta byltingarsinnaða stefnu fyrir Ísland, treystir ekki á þingræðisleið til sósíalismans, stefnir að myndun nýs verkalýðsflokks, heldur uppi merkjum sjálfstæðrar og lýðræðislegrar verkalýðshreyfingar á grunni stéttabaráttu, er hlynnt hvers kyns jafnrétti og andæfir í einu og öllu báðum risaveldunum. Vilji menn ekki aðstoða við útgáfu blaðsins er a.m.k. brýnt að lesa blaðið og taka það alvarlega.

Flokkarnir fjórir sem starfa aðallega á þingi hafa sjálfir grafið undan trausti almennings á flokkunum. Það stefnir hægt og sígandi í uppstokkun á flokkakerfinu.

Kommúnistasamtökin og Verkalýðsblaðið er hluti af fulltrúunum fyrir nýjabrumið og öflin er stefna dálítið spyrjandi á nýjan og raunverulegan verkalýðsflokk.

—agé

# Styðjum sjómenn

Íslenskir sjómenn eiga fullan rétt á umtalsverðum kjarabótum. Þeim má ekki ná með gengisfellingu, aukaframlögum til útgerðar eða með því að klípa af kaupmætti landverkafólks. Skammtímalausnir felast í því að fella niður framlög til atvinnrekenda sem tekin eru af óskiptum afla og hækka fiskverð í samræmi við ábendingar sjómannanna sjálfra. Langtímalausn felst í því að endurskipuleggja alla útgerð og fiskvinnslu í landinu með tilliti til hagsmuna sjómanna og byggðar, en hvorki einkaaðila né auðhringa. Taptölur eru meðaltöl sem segja fátt og auk þess miðaðar við að lífskjör forráðamannanna haldist óbreytt. Verkalýðsblaðið krefst þess að tölurnar og útreikningarnir séu opinberaðir strax.

# Afganistan

Í desember sl. voru 2 ár liðin frá innrás Sovétmanna í Afganistan. Hún hefur nú kostað þjóðina nær hálfa milljón mannslífa og um 2 milljónir eru landflótta. Nú er orðið ljóst að Sovétmenn og leppar þeirra eiga engan stuðning vísan í landinu og jafnvel eiturhernaður kemur ekki í veg fyrir að þjóðfrelsisöflin eflist dag frá degi. Verkalýðsblaðið gagnrýnir harðlega þá litlu aðstoð sem afganska þjóðin fær héðan og hugleysi íslenskra stjórnvalda og flokka gagnvart Sovétríkjunum. Kommunistasamtökin skora á fólk að efla stuðning við Afgani og þau munu áfram reyna að fá hingað fulltrúa þjóðfrelsismanna. Það gæti tekist nú snemma á árinu.

# Styðjum Guðmund og félaga

Nú er komið fram framboð til stjórnar Verkamannafél. Einingar á Akureyri sem beinist gegn skrifræði, lýðræðisskorti og flokkapoti. Listi Guðmundar Sæmundssonar og félaga er til marks um framsækna andstöðu innan ASÍ. Sigur hans gæti verið einn þátturinn í líflegri og sannari verkalýðsbaráttu fyrir norðan.

Verkafólk á Akureyri og í nágrenni: Veitið nýju blóði í baráttu ykkar, styðjið lista Guðmundar Sæmundssonar og félaga. laga.

Launafólk annars staðar: Íhugið hvað þið getið gert.

14. jan./agé.

# Spánn okkar tíma

Framhald af forsíðu

þjáningar meðbræðranna þegar mörg mannslíf liggja við, sjálfstæði þjóðar eða jafnvel heimsfriðurinn. Það þarf að hrekja pólsk stjórnvöld til baka og það þarf að einangra og afvopna Sovétríkin (það á líka við hitt risaveldið). Þess vegna er það skylda íslensku ríkisstjórnarinnar og kvöð á stjórnmálaflokkum að þrýsta á viðkomandi aðila. Þetta á líka við um Afganistan eða El Salvador. Auðvitað duga aðgerðir Íslendinga skammt einar, hér þarf samvinnu margra ríkja, t.d. Norðurlandanna allra. En þar sem hér ríkir ráðleysið og óttinn við risaveldin. En hvað gæti ríkisstjórnin gert? Hvað gætu flokkarnir gert?

Stjórnin gæti krafist endurskoðunar á efnahagssamvinnu Póllands og Íslands, utanríkisráðherra gæti kallað pólska sendiherrann til formlegra mótmæla, stjórnin gæti sent formleg varnaðarorð til Sovétmanna og síðast en ekki síst gæti hún veitt duglega til hjálparstarfsins. Flokkarnir gætu skipulagt almennileg mótmæli, beitt verkalýðshreyfingunni hér til þess að láta rigna yfirlýsingum og undirskriftalistum yfir pólsk yfirvöld og gert sérátak í fjársöfnun.

Lítil liðveisla við pólska alþýðu nú minnir óhugnanlega á Spán fyrir síðasta stríð. Vonandi nær samlíkingin ekki lengra!

—agé




# ,,AB lítt ágengt í borgarstjórn''

**Mánudaginn 11. jan. héldu Kommúnistasamtökin almennan fund að Hótel Borg um efnið hvað vinstri menn hygðust gera í komandi borgarstjórnarkosningum.**

Í upphafi fundarins kom í ljós að í auglýsingu um fundinn í Verkalýðsblaðinu hafði verið flanað að því að tilkynna Kvennaframboðið og Fylkinguna sem þátttakendur á fundinum. Kvennaframboðið treysti sér ekki til að taka þá áhættu að vera blandað saman við vinstri stefnu. Fylkingunni fannst engin ástæða til að ræða framboðsmál eða þ.h. á fundi með Kommúnistasamtökunum. Það yrði gert á eigin vettvangi, eins og Már Guðmundsson lýsti yfir í upphafi fundar.

Ari T. Guðmundsson rakti í framsögu sakaskrá Alþýðubandalagsins í borgarmálefnum og taldi það ekki góðan kost að styðja það, né heldur að stuðla að því að fella AB með beinum stuðningi við íhaldið. Eigið framboð kommúnista frábað Ari sér og klykkti út með því að lýsa sig spenntan fyrir kvennaframboðinu, enda ,,tilraunastarfsemi sem má prófa einu sinni, þrátt fyrir ramakvein þeirra flokka sem fyrir eru''.

Sigurður Tómasson sagði í sinni framsögu að AB væru einu samtökin sem á fundinum vissu hvað þau ætluðu að gera í vor. Það hefði stefnuskrá frá því fyrir fjórum árum. Hann viðurkenndi að AB hefði komið litlu í verk undanfarið kjörtímabil. Rakti hann ýmsar ástæður sem lágu til þess. Meginverkefnið hefði hins vegar verið að afsanna glundroðakenninguna og standa saman um fjárhagsáætlun hverju sinni. Málefnasamningur meirihlutans var afskaplega fátæklegur'' sagði Sigurður. Hann bað menn þó að athuga fordómalaust starf AB. ,,Það er ekki fyrir skort á vinnu eða fyrir sviksemi að flokknum hefur orðið svo lítið ágengt.''

Ýmislegt fleira kom fram á fundinum, s.s. stuðningur við framboð kommúnista og aðrar gagnlegar vangaveltur. Á fjórða tug atkvæða sást á fundinum.

-óhs.

# Á klafa fjölþjóðahringa?

Framhald af forsíðu

grundvallast á sjálfvirkni og framleiðir vöru sem enga fjölþjóðahringi þarf til að koma á markað.

Sjálfsagt er að nýta sér tækniþekkingu erlendis frá ef gætt er að því að Íslendingar ráði bæði framleiðslu og markaðsferlinu. Íslenskir tæknimenn hafa jú lært mikið af erlendum starfsbræðrum sínum við virkjanagerð.

Það er þó kannske borin von til að embættis- og stjórnmálamenn þessa lands fari á hnotskóg eftir slíkum iðnaði. Þeir eru jú, eins og margoft hefur verið bent á í **Verkalýðsblaðinu**, sjálfsagt of knýttir böndum við alþjóðlegt fjármagn.

—óhs.



**Í athyglisverðri grein í Þjóðviljanum 6. jan. sl. rekur Jóhann J.E. Kúld rækilega hvernig Íslendingar geti komið sér upp háþróuðum og tæknivæddum matvælaiðnaði, sem framleiðir fullunna vöru fyrir erlendan markað.**

# HERLÖG Í HAG RISAVELDUNUM

**Enn einu sinni má pólska þjóðin þola það að farið er með hana sem ómerkt peð í valdabaráttu stórvelda í austri og vestri. Enginn vafi leikur á því að þegar Jaruzelski og aðrir hershöfðingjar tóku sér alræðisvald og afnámu almenn lýðréttindi í Póllandi áttu þeir sér fárra annarra kosta völ ef þeim ætti að takast að tryggja áframhaldandi forréttindi þess hóps skrifræðiskapítalista og landssvikara sem þeir eru fulltrúar fyrir.**

Völd þessara þjóna sovéskrar heimsvaldastefnu í Póllandi byggjast eingöngu á nytsemi þeirra við að halda aftur af þjóðerniskennd alþýðu landsins og andstöðu hennar við sovésku heimsvaldastefnuna. Eins og öllum er nú ljóst eru þeir vissulega ekki fulltrúar alþýðu Póllands. Hefði hún tækifæri til væri hún löngu búin að losa sig við þá. Stöðugt háværari kröfur verkamanna um að meiri völd sér til handa, sem þeim bæri tvímælalaust að hafa væri Pólland sjálfstætt sósíalískt land, gerðu Rússa órólega. Þeir hræddust bæði það að leitt yrði í ljós hvernig þeir hafa mergsogið Pólland og arðrænt síðustu áratugi og eins það að kröfur um verkalýðræði, vald í hendur verkalýðs, breiddust út til annarra lepprikja þeirra og til Sovétríkjanna sjálfra. Leppar þeirra í Póllandi stóðu sig greinilega ekki nógu vel. Þeir voru því án efa áminntir og bent á að tækist þeim ekki að hafa hemil á pólskum verkamönnum myndu Sovétmenn sjálfir taka málin í sínar hendur. Þá hefði þurft að fórna nokkrum fleiri flokksleiðtogum. Flokksforystan pólska ákvað að hætta ekki á það heldur verða fyrri til. Það er því fjarri lagi sem sumir hafa haldið fram að það hafi verið af umhyggju fyrir pólskri alþýðu sem herlögum var komið á. Innrás Sovétmanna var að vísu bægt frá í bili en kúgun leppa þeirra á Pólverjum er vart minni en ef þeir hefðu sjálfir verið Rússar.



**Í september síðastliðinn sendu verkamenn í Lenínverksmiðjunum í Gdansk opið bréf til Jaruzelskis þar sem þeir m.a. kröfðust þess að skýrt yrði opinberlega frá viðskiptaháttum Sovét við Pólland og að viðskiptum byggðum á jafnréttisgrundvelli yrði aftur komið á.**

## Herlögin koma sér vel fyrir Bandaríkin

Varla hefði verið hægt að koma herlögum á í Póllandi á betri tíma fyrir Bandaríkjamenn. Einmitt núna eru afleiðingar efnahagsstefnu Reagans að byrja að koma í ljós í Bandaríkjunum. Í stað þess að minnka efnahagskreppu bandarisks auðvaldskerfis þá hefur atvinnuleysingjum enn fjölgað svo að þeir hafa aldrei verið fleiri frá heimskreppunni miklu. Herlög og hallarbylting í Póllandi voru því kjörið tækifæri til að beina athygli bandarískrar alþýðu frá kreppunni heima fyrir og útmála fyrir henni hættu heimskommúnismans og eymd alþýðu kommúnistalandanna, en það er Bandaríkjamönnum talin trú um að Pólland sé.

Um leið gafst þarna tilvalið tækifæri til að beina athygli manna frá auknum vígbúnaði Nato og lækka rostann í friðarhreyfingunum sem bandarískir heimsvaldasinnar voru farnir að vera alvarlega hræddir við. Ekki er hægt að sjá annað en að þeim hafi að nokkru tekist þetta, a.m.k. í bili. Ekki er ólíklegt að margumræddar efnahagsþvinganir geti sparað Bandaríkjunum einnig nokkra dollara, svo mikið er víst að ekki eru þær þeim dýrar. Um hitt er ekki hugsað að það er pólsk alþýða sem líður fyrir þessar ráðstafanir en staða Sovétmanna styrkist líklega við þær þó ekki sé nema kannski á áróðursviðinu.

Ólíklegt er að hik bandamanna Bandaríkjanna við þátttöku í efnahagslegum refsiaðgerðum þeirra stafi af samúð með pólskri alþýðu. Hitt er líklegra að það stafi af því að Pólverjar skulda Vesturlöndum stórfé og þeim er í mun að fá greiðslugetu til að standa undir endurgreiðslu á eldri skuldum.

Eins og sagan hefur sýnt lætur pólska þjóðin ekki bugast þótt frelsi og sjálfstæði hennar hafi verið virt að vettugi. Enn er ekki alveg útséð um það hvernig mál munu þróast í Póllandi alveg á næstunni, en við íslenskir kommúnistar erum ekki í neinum vafa um að þó svo að pólsk alþýða bíði nú stundarósigur þá mun hún rísa upp aftur og aftur þar til hún vinnur sigur á allri kúgun og afturhaldi.

kk

# Nýtt vinnsluferli Verkalýðsblaðsins

Eins og flestir lesenda munu hafa séð, þá var síðasta tölublað 1981 vélsett og nokkuð breytt í útliti. Það er ætlun okkar að halda áfram á sömu braut og mun líða nokkur tími þar til blaðið hefur fengið endanlegt útlit. Verkalýðsblaðið er ekki lengur prentað í eigin prentsmiðju blaðsins, því flest tæki hennar hafa verið seld. Fjárhagur blaðsins leyfir að það komi út mánaðarlega 4, 6 eða 8 síður, að því tilskildu að áskrifendur borgi skuldir, að þeim fjölgi um 100—150 á árinu og að lausasala hefjist á ný. Þá er einnig í ráði að koma upp styrktarmannakerfi. Við höfum mikinn áhuga á að bæta blaðið, stækka það og auka útbreiðsluna. Í þeim efnum verðum við að reiða okkur á velunnara blaðsins. Þeir geta vissulega haft við okkur samband að fyrra bragði og boðið aðstoð. Ekkert framlag er of lítið, engar vinnustundir of fáar. Einna mest þætti okkur koma til greinaskrifa og nýrra áskrifenda. Hingað til hafa mjög fáir gefið sig fram til stuðnings Verkalýðsblaðinu og munum við því leggja áherslu á að leita til fólks.

Lausasöluverð blaðsins hækkar og áskriftarverð sömuleiðis. Líklegar tölur eru 10 kr. fyrir hvert tölublað og 120 kr. fyrir ársáskrift innanlands, sé hún greidd fyrir 1. júlí.

Þörf er fyrir Verkalýðsblaðið. Meðan blaðið er gefið út á grundvelli áhugamennsku er það mjög háð framlagi kommúnista og annarra, bæði innan og utan Kommúnistasamtakanna. Okkur finnst að allt of margir geri sér ekki grein fyrir þessu. Með betra átaki allra gæti blaðið verið beittara vopn í baráttunni fyrir verkalýðsflokki.

Ritsj.

### Að afloknum jólum:

## Við þurfum að vita en ekki trúa

Hver skyldi vera tilgangur Íslendinga með jólahaldi? Meirihlutans. Í eina tíð voru jólin eins konar biðstöð á löngum vetri þar sem menn gerðu sér dagamun og fögnuðu hækkandi sól. Við hana bundu þeir hluta af sinni heiðnu trú sem kom í stað þekkingar. Kristin kirkja hagnýtti sér þessa hátíð og gæddi hana nýju trúarlegu inntaki. Það stendur reyndar ekki í neinu sambandi við raunverulega atburði sögunnar.

Núna, um 1000 árum eftir að kristnin markaði miklar framfarir, eru jólin aftur að nálgast hátíð sólrisunnar, þótt trúin á sólina eða heiðin goð sé löngu horfin. Ætli flestir líti ekki á jólin sem hátíð til að klippa sundur langan vetur, gleðja aðra, hvílast og skemmta sér?

Það er vaxandi þekking sem hefur vikið trúarlega inntakinu æ lengra til hliðar. Kommúnistar sem ekki hafa það heiti í nafni falskrar alþýðuvináttu, eru hlynntir fullu trúfrelsi. Þeir vilja aðskilja ríki og kirkju og heyja hugmyndabaráttu við hana, í einlægni, af kurteisi og án yfirgangs. Ástæðan er ekki andstaða við mikið af siðaboðskap kristninnar eða



Ari Trausti Guðmundsson

höfnun samvinnu. Hún er önnur og tvíþætt. **Í fyrsta lagi** er trú andstæð þekkingu. Trúin byggir á sannfæringu án raka, hún fær mann til að treysta á atburði eða fyrirbæri í blindni og hindrar mann í að skoða veruleikann hlutlægt og breyta sjálfur gangi mála. Trúin viðheldur vantrausti fólks á sjálfu sér og getur gert það hlutlaust þegar hörð barátta krefst afstöðu. Þessi orð gera vissulega ráð fyrir fjölmörgum undantekningum. **Í öðru lagi** byggir trúin að staðhæfingum um að hreyfiöfl náttúrunnar og mannkyns liggi handan þekkingar og utan fyrirbæranna sjálfra. Og þessi orð afneita heldur ekki undantekningunni eða þeirri staðreynd að enn getur trú sameinað fólk til starfs.

Sjálfir hafa kommúnistar oft tekið trúarlega afstöðu. Ekki til kirkju eða einhvers guðs, heldur til eigin samtaka, til ríkja, til frumkvöðla sósíalismans, eða eigin starfs og málstaðar. Sú huglæga afstaða hefur gert þá gagnrýnislausa, óhlutlæga í mati, kröfuharða á árangur, þrengt sjóndeildarhring og haldið aftur af þekkingaröflun. Þegar goðið sýnist loks (og eðlilega) gallað, bilar trúin og þá tekur við ráðleysi í stað rannsókna og meiri vinnu. Marx-leniníska hreyfingin hefur látið á sjá vegna þessa. Og enn sér maður eða heyrir: — Ég hef ekki trú á marxismanum, ekki trú á samtökunum, ekki trú á Verkalýðsblaðinu... o.s.frv. En þarf hana? **Þarf að trúa á verklokin þegar starf er hafið?** Spyrjum smiðinn. Hugleiðum muninn á trú og vitneskju og tengsl eigin framlags við breytingar á umhverfi okkar.

Kommúnistasamtökin og Verkalýðsblaðið óska lesendum blaðsins árs og friðar.

Ari T. Guðmundss.

| Lausasala: | Kr. 10,00 |
|---|---|
| Áskrift: | Kr. 120,00 |
| Stuðningsáskrift: | Kr. 170,00 |
| Áskrift til útlanda: | Kr. 170,00 |

**Verkalýðsblaðið**

1. tbl. 11. árg. 26.1. 1982

# UNGA FÓLKIÐ AÐ HRESSAST




**Frá mótmælum framhaldsskólanema í M.H. í haust.**

Pólitísk þátttaka unglinga hefur verið í lágmarki um nokkurra ára skeið, allt frá því að órólegu árgangarnir frá því upp úr 1970 uxu úr grasi. Nú bendir ýmislegt til þess að unga fólkið sé nú að hressast. Unglingahljómsveitirnar eru m.a. til marks um það. Þær hafa sprottið upp í tugum, þrátt fyrir að illa sé búið að slíkri starfsemi.

Það þarf dugnað og baráttuþrek til að stofna hljómsveit og margir stíga þar sín fyrstu skref í virku félagsstarfi, er síðar meir getur snúist upp í pólitíska baráttu. Hljómsveitirnar flytja auk þess boðskap og hinar erlendu fyrirmyndir eru margar mjög róttækar á sinn hátt. E.t.v. gæti viss pólitísk leiðsögn í anda Maós gamla hjálpað unglingunum til að taka sjálfstæðari stefnu í list sinni.Nú í haust loguðu margir framhaldsskólanna í verkföllum og mótmælafundum. Þar var verið að mótmæla gerræði ríkisvaldsins og mættu fleiri verða til þess.

Reglugerðin, sem nemendur (og einnig margir kennarar) voru að mótmæla er heldur sakleysislegt plagg miðað við margt annað, sem ríkið dengir yfir fólk, en engu að síður full ástæða til mótmæla.

Það tíðkast ekki hjá hinum háu herrum að taka mark á unglingum, er þeir bera fram kröfur og kvartanir.

Landssamband framhaldsskólanema (LMF) hefur um árabil barist fyrir bættri mötuneytisaðstöðu og lækkun mötuneytiskosnaðar. Fulltrúar LMF hafa gengið á fund ráðherra og fjárveitinganefndar með erindi sínu. Þar segja menn:,,já, já, krakkar mínir'' og síðan ekki söguna meir. Unglingarnir verða auðvitað reiðir þegar yfirvöld virða þá einskis og sumum finnst þá tallt tal um lýðræðisþjóðfélag vera út í hött. Er það ekki alveg út í hött? Við njótum vissra lýðréttinda en ráðum harla litlu. Við megum nöldra að vild, jafnvel í fjölmiðlum, en það er bara hlustað á þær raddir, sem samræmast því sem er og þóknast þeim sem nú ráða.

Margir kennarar studdu mótmæli nemendanna eða sýndu þeim a.m.k. skilning. Svo hefur frést um aðra, sem gerðu gys að forsprökkum nemenda, t.d. fyrir málvillur og prentvillur í dreifibréfum, sem þau sömdu og hæddu aðra nemendur fyrir að vera ekki alveg klárir á því hvaða atriðum í reglugerðinni þeir væru að mótmæla. Svo truflaði þetta náttúrlega kennsluna.

Eins dags verkfall nemenda Menntaskólans á Ísafirði var fyrst og fremst samúðarverkfall með félögum þeirra í fjölbrautaskólunum fyrir sunnan, þar sem reglugerðin hefur takmörkuð áhrif á þeirra eigin skóla. Þátttakan var að þeirra mati mjög góð. Samúðarverkföll eru því miður sjaldgæf nú, enda þarf meiri samstöðu og félagsþroska til að berjast fyrir kröfum annarra en sinna eigin.

Unga fólkið þarf á pólitískri leiðsögn þeirra eldri að halda. Afturhaldið má ekki eitt og ótruflað annast pólitíska uppeldið. Kommúnistasamtökin og Verkalýðsblaðið hefur hér skyldum að gegna, meðal annarra. Unga fólkið þarfnast okkar, m.a. til að geta sneitt hjá sem flestum af þeim barnasjúkdómum sem hrjáðu okkar samtök, þegar þau voru ung og spræk. Við þurfum að fylgjast með baráttu þeirra, ræða við það og aðstoða eftir megni, án þess þó að þröngva okkar skoðunum upp á það.

Við getum t.d. haldið löng eða stutt námskeið í marxískum fræðum sniðin að óskum ungs fólks. Slík námskeið eru óvíða á boðstólum.

Fyrir Kommúnistasamtökin og alla róttæka hreyfingu er það lífsspursmál að tengjast ungu fólki, sem hefur meiri kraft og tíma til að starfa en þeir eldri, sem margir eru nú að gangast undir húsbyggingamanndómsvígsluna.

Það þarf að örva og aðstoða ungt fólk til að berjast fyrir betri heimi, fyrir friði og herstöðvalausu landi og gegn stríðsbrölti heimsveldanna. Nú er einmitt rétti tíminn til þess.

,,gamall''

# Friðarhreyfing í Kaupmannahöfn

Þann 15. nóvember sl. var haldinn stofnfundur Friðarhreyfingar íslenskra námsmanna í Kaupmannahöfn.

Markmið hreyfingarinnar er að stuðla að friði og afvopnun. Hreyfingin styður kröfuna um kjarnorkuvopnalaus Norðurlönd. Hún lítur svo á að herstöðvarnar á Íslandi gegni ótvíræðu hlutverki í kjarnorkuvopnaneti Bandaríkjanna og mun vinna gegn veru þeirra. Hreyfingin hafnar útþenslustefnu stórveldanna og íhlutun þeirra í málefni annarra þjóða, sbr. t.d. innrás Sovétríkjanna í Afganistan og íhlutun Bandaríkjanna í málefni Mið- og Suður- Ameríku.

Starf hreyfingarinnar mun einkum felast í að afla og miðla upplýsingum um hernaðarumsvif Bandaríkjanna og Sovétríkjanna á Íslandi og í hafinu um kring, vekja athygli á afleiðingum kjarnorkustríðs/-slyss og tengja starf íslenskra friðarhreyfinga við starf annarra evrópskra friðarhreyfinga.

Þeir sem hafa áhuga á að hafa samband við hreyfinguna geta snúið sér til:

Friðarhreyfing íslenskra
námsmanna í Höfn.
Hús Jóns Sigurðssonar
Østervoldgade 12 st.
1350 København K
Danmark.

(Úr fréttatilkynningu)

## RUKKUNARHORNIÐ

### Til áskrifenda sem teknir voru af skrá sl. haust

Sending blaðsins til yðar var stöðvuð vegna vanskila í september sl. Við höfum grun um að það hafi farist fyrir hjá yður að borga og að þér viljið borga skuld yðar fyrir árið 1980 og 2/3 ársins 1981, samtals kr. 100. Ef þér eigið erfitt með að greiða alla skuldina en viljið þó gjarna fá blaðið áfram sendið okkur þá línu og við komumst örugglega að einhverju samkomulagi. Gerið það sem fyrst. Látið jafnframt vita hvort þér viljið fá 9.—12. tbl. 1981 því að takmarkað upplag er til af 11.—12. tbl. Næsta tbl. verður sent í póstkröfu. Munið að tilkynna okkur ef þið hafið flutt.

Yfirrukkari

### Um gjöld 1982 og rukkun þeirra

Póstkrafa hefur verið send út til þeirra áskrifenda úti á landi sem enn skulda árgjald 1981. Bætt var við upphæðina kr. 10, vegna innheimtukostnaðar. Ef þið hafið í millitíðinni greitt áskriftargjald 1981 telst þessi greiðsla vera hluti árgjalds 1982. Þetta blað er hið síðasta sem skuldugir áskrifendur úti á landi fá sent.

Þeir örfáu áskrifendur á höfuðborgarsvæðinu, sem enn skulda árgjald 1981 eða hluta þess verða annað hvort heimsóttir nú mjög fljótlega og rukkaðir eða árgjaldið verður rukkað um leið og árgjald þessa árs.

Yfirrukkari

### Rukkun gjalda '81

Rukkun árgjalda 1982 hefst að líkindum með skipulegum hætti í byrjun mars. Grunnárgjald hefur verið ákveðið kr. 120, — en þeir sem ekki borga það fyrir 1. júlí verða rukkaðir um hærri upphæð sem enn hefur ekki verið ákveðin hver er og auðvitað þarf alls ekki að ákveða það ef allir verða búnir að borga.

Verð til **áskrifenda erlendis** er kr. 170, ef það er greitt fyrir 15. apríl. 1. maí-blaðið verður væntanlega sent í póstkröfu þeim sem ekki hafa borgað af sjálfsdáðum og þá upp á 200 krónur.

Yfirrukkari